Arðrændir og kúgaðir allra landa - sameinist !



# VERKALÝÐS BLAÐIÐ

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)

9. tbl. 5. árg. 9.maí - 25. maí 1979 Verð kr. 200.-

## Niðurskurður á fjárveitingum til skóla

# Stórfelld árás á kennara, nemendur og foreldra

Mótmæli samtaka kennara við niðurskurði skólamála eru hafin. Þessum mótmælum þarf að fylgja á eftir með kröftugum aðgerðum. Með áformum sínum ræðst ríkisvaldið harkalega á bæði kennara sem starfsstétt, nemendur og foreldra þeirra.

**Við mótmælum öll —**

Fulltrúaráð S.G.K. mótmælir harðlega þeirri stefnu stjórnvalda að ganga sífellt á þann rétt grunnskólanemenda sem tryggja átti með grunnskólalögunum.

Fulltrúaráðið skorar á kennara, foreldra og alla aðra sem láta sig málefni íslenskra barna varða að bregðast hart við þeirri árás sem gerð er að skólastarfi í landinu með stórfelldum niðurskurði á rekstrarfé til grunnskólans.

Nær væri að halda áfram uppbyggingu grunnskólans þar sem vitað er að hann er verr búinn en almennt gerist á Vesturlöndum.

Þá felur fulltrúaráðið stjórn S.G.K. að stuðla að mótmælaaðgerðum kennara, kennaranema, foreldrafélaga, skólanefnda og fræðsluráða um land allt.

HVER ER STAÐAN Í SKÓLANUM NÚNA ?

Á undanförnum árum hefur verið barist fyrir því að starfsaðstaða kennara verði bætt. Þetta er ekki síður hagur nemenda og foreldra. Með grunnskólalögunum var mörkuð sú stefna að bæði ætti að fækka nemendum í hverjum bekk og gera námið fjölbreyttara, auk annarra hluta svo sem samræmdara nám o.fl. Ráðstafanir ríkisstjórnarinnar þverbrjóta þessa stefnu grunnskólalaganna.

Starfsaðstaða kennara er við núverandi aðstæður víðast hvergi nærri nógu góð til þess að hægt sé að uppfylla ákvæði laganna. Víða er algengt að nemendafjöldi sé 25-26 nemendur í bekk í kennslustofum sem ekki eiga að rúma fleiri en 20-24 nemendur.

Sérgreinastofur svo sem tungumálastofur og raungreinastofur eru fátíðar á lægra skólastiginu þ.e. fyrir 1.-6. bekk. Nýtt námsefni í mörgum greinum svo og breyttir kennsluhættir kalla á aukið svigrúm í starfi skólanna. Þessu er samt settar afar þröngar skorður vegna bæði vinnuálags á kennara og ófullnægjandi skólahúsnæðis.

Þegar grunnskólalögin voru sett fögnuðu kennarar og bjuggust við að þeim yrði sköpuð skilyrði til að starfa í anda þeirrar stefnu sem þar er boðuð.

HVAÐ TEKUR VIÐ ?

Með niðurskurði ríkisstjórnarinnar er grunnskólalögunum í raun og veru ýtt til hliðar. Það sem nú er stefnt að er m.a.:

a) Fjölgun nemenda í bekkjardeildum. Gert er ráð fyrir 28 nemendum að meðaltali í bekk. Ekki er

frh. á bls. 5

## Eimskip:

# Gerviúrlausnir í öryggismálum

Eftirleikurinn að dauðaslysinu um borð í Tungufossi á dögunum hefur orðið nokkur. Virðist slysið hafa hrært illilega upp í forystu Dagsbrúnar. Þó væri synd að segja að Gvendur Jaki hafi tekið upp neinn stríðshanska gagnvart forstjóraliðinu í Eimskip. Þar ræður friðsemdin ein ríkjum sem endranær. Nú hefur verið skipuð nefnd til að gaumgæfa öryggismálin hjá Eimskip og sitja í henni tveir fulltrúar Eimskips, tveir fulltrúar öryggiseftirlitsins og tveir fulltrúar Dagsbrúnar, Gvendur Jaki og einn verkamaður. Samsetning nefndarinnar gefur til kynna að tilgangur hennar sé sá einn að drepa málinu á dreif og fela raunverulegt ástand.

Um daginn boðaði öryggiseftirlitið verkamenn hjá Eimskip á námskeið í öryggismálum. Sko til. En námskeiðið átti ekki að vera kennsla í hvernig fara ætti með og stjórna ónýtum tækjabúnaði Eimskips, heldur átti það að fara fram í húsakynnum öryggiseftirlitsins. Auk þess skyldi hver þátttakandi greiða 7.500 kr. fyrir kennsluna, sem skyldi dragast frá launum. Forstjóri Eimskips var til í að sjá um það. Þarna ætlaði öryggiseftirlitið að næla sér í hundruð þúsunda með aðstoð forstjóra Eimskips og Dagsbrúnarforystunnar. Loks er ljóst að tilgangurinn með þessu námskeiði var að fela raunverulegt ástand öryggismála við höfnina og reyna að færa sökina á hinum tíðu vinnuslysum þar yfir á verkamennina sjálfa. Verkamennirnir vildu ekki una þessum aðferðum og neituðu að mæta á námskeiðið, og féll það niður, Gvendi Jaka & Co. til mikillar armæðu.

Dagsbrúnarforystan stendur sig ekki betur í öðrum málefnum verkamannanna við höfnina, að því er Benedikt Kristjánsson, öryggistrúnaðarmaður, tjáði

frh. á bls. 4

# ASÍ afhenti PAC 200 þús. kr.



Count Pieterson (Mynd: VB)

## SAMEINING 1. maí gegn kjaraskerðingu:

# 400 í göngu og á útifundi 550 á baráttufundi í Sigtúni 300 á kvöldskemmtun

Aðgerðir Sameiningar 1. maí gegn kjaraskerðingu fóru fram skv. auglýstri dagskrá og tókust vel, einkum þó miðað við veðurlag á baráttudegi verkalýðsins í þetta sinn. Um 400 manns tóku þátt í göngu og síðan á útifundi á Hallærisplani, þrátt fyrir mikinn strekking og kulda. Í aðgerðum Fulltrúaráðs verkalýðsfélaganna, BSRB og Iðnnemasambandsins er reiknað með að um 800 manns hafi tekið þátt, en í göngu Rauðrar Verkalýðseiningar (Fylkingarinnar) um 500, þegar mest var.

Á baráttufundi Sameiningar 1. maí í Sigtúni var fullt hús, um 450 fullorðnir og 100 börn, en sérstök skemmtun var fyrir þau á efri hæð.

Á kvöldskemmtun Sameiningar í Hreyfilshúsinu var einnig fullt hús. Má reikna með að um 250-300 manns hafi litið þar inn.

Rauðsokkahreyfingin hélt innifund í Þjóðleikhúskjallaranum eftir útifundi fyrir sig og unnusta sína í Rauðri Verkalýðseiningu. Verkalýðsblaðinu er ekki kunnugt um fjölda þátttakenda þar.



Ganga Sameiningar 1.maí gegn kjaraskerðingu kemur niður í miðbæ. (Mynd: Verkalýðsblaðið)




## Efnahagslögin:

# Frá vinnandi fólki — til auðvaldsins

+ 35 - 37% verðbólga 1979.
+ Um 40% ASÍ - félaga, flestir félagsmenn í BSRB og nær allir í BHM ofan við mark "láglaunabóta".
+ Nærri fjórðungi meira peningamagn en nú er, verður bundið í Seðlabankanum.
+ 2,5% verðbótaskerðing verður 1. júní hjá fólki með lægri laun en 210 þús. kr. á mánuði, en 4,5%-6% skerðing hjá hinum. Önnur eins skerðing áætluð 1.des. n.k.
+ Eftir 1. des. kemur viðskiptakjaravísitala til fullrar viðmiðunar.
+ Vísitölugrunninum breytt með því að taka tillit til olíuverðshækkunnar til heimila, til áfengis- og tóbaksverðs og t.d. launaliðar búvöruverðs ofl.
+ Hagræðing, samdráttur og sparnaður boðaður hjá einka-, bæjar- og ríkisfyrirtækjum.

Þetta eru nokkur helstu atriði laganna sem "stjórn vinnandi stétta" hefur sett en mörg stéttarfélög, pólitísk samtök og einstaklingar mótmælt. Deilur stjórnarflokkanna og sumt af gagnrýninni tekur aðeins yfir hve mikil launaskerðingin eigi að vera. Kommúnistarnir, baráttumenn innan verkalýðshreyfingarinnar og framsæknir einstaklingar eru í raun þeir einu sem hafa hafnað meginatriðinu: Að verkafólk og önnur alþýða sé látin bera einhvern hluta versnandi afkomu fyrirtækja og svokallaðs þjóðarbús. Af lögunum sést greinilega að verið er að færa milljarði eða spara milljarði sem falla auðvaldinu í skaut með lánum, styrkjum, vaxtabreytingum og lækkuðum kostnaði við rekstur.

**VIÐMIÐUNIN VIÐ VIÐSKIPTAKJÖR.**

Hér verður aðeins dvalið við einn lið frumvarpsins sem varð að lögum fyrir skömmu: Viðskiptakjaravísitöluna.

Hvað er átt við með tengingu verðbóta við viðskiptakjör? Útflutningsverslun er mjög stór þáttur ísl. efnahagskerfis. Þegar keypt er meira til landsins en selt er úr landi (að verðmæti til), þá er halli á viðskiptakjörunum. Nú á að taka tillit til viðskiptakjaranna við útreikning verðbóta, sem eiga að bæta innlenda verðbólgu öðru framar. Það verður gert þannig að notuð verður sérstök vísitala sem mun miðast við viðskiptakjör eins og þau voru 1978 sem grunntölu og mælir breytingar frá því. Síðan verður ákveðin prósenta jákvæðra eða neikvæðra viðskiptakjara látin hafa áhrif á sjálfa verðbótavísitöluna, þannig að halli lækkar verðbætur, en verðbætur hækka séu kjörin jákvæð. Þessi regla kemur að fullu til framkvæmda 1. des.n.k.

*1. tafla. Greiðslujöfnuður við útlönd,*

| Í millj. kr. | Vöruútflutningur 1 | Vöruinnflutningur 2 | Vöruskiptajöfnuður (1÷2) 3 | Þjónustujöfnuður 4 | Viðskiptajöfnuður (3+4) 5 | Löng erlend lán, nettó 6 |
|---|---|---|---|---|---|---|
| 1967 | 4.246 | -6.484 | -2.238 | -13 | -2.251 | 542 |
| 1968 | 4.722 | -7.373 | -2.651 | 27 | -2.624 | 940 |
| 1969 | 9.411 | -9.285 | 126 | 265 | 391 | 1.162 |
| 1970 | 12.850 | -12.459 | 391 | 260 | 651 | -721 |
| 1971 | 13.178 | -17.518 | -4.340 | 480 | -3.860 | 2.936 |
| 1972 | 16.700 | -18.775 | -2.075 | 320 | -1.755 | 2.710 |
| 1973 | 26.020 | -29.180 | -3.160 | 525 | -2.635 | 3.670 |
| 1974 | 32.880 | -47.580 | -14.700 | -830 | -15.530 | 9.000 |
| 1975 | 47.440 | -68.040 | -20.600 | -780 | -21.380 | 15.155 |
| 1976 | 73.500 | -78.130 | -4.630 | 240 | -4.390 | 10.750 |
| 1977 | 101.890 | -112.345 | -10.455 | 800 | -9.655 | 19.270 |

Nú sést af meðfylgjandi töflu (innrammaði dálkurinn Hagtölur, jan.´79) að viðskiptakjör frá 1967-1977 hafa verið neikvæð, nema árin 1969 og 1970, en þá var "gróðinn" lítill. Í fyrra voru þau neikvæð og eru óhagstæð um ca. 3 milljarða kr. fyrstu þrjá mánuði þessa árs. Það er því ljóst að áhersla stjórnarliðsins á að "góðæri leiði til aukinna verðbóta" á ekki við mikil rök að styðjast í raun og veru. Reyndar er fyrirsjáanlegur mikill halli á viðskiptakjörum.

Að lokum er rétt að benda á grundvallaratriðið að baki viðskiptakjaraviðmiðuninni eins og sérfræðingarnir segja. Með henni er verið að hlífa auðmagnseigendunum og ríkisvaldi þeirra - aðstoða þá við að varðveita gróða sinn með því að heimila þeim á nýjan veg að taka tillit til sveiflna í rekstri og aukins kostnaðar. Hér er sem sagt á ferðinni óskahugmynd atvinnurekenda: Að aukinn gróði (bætt afkoma þeirra) sé forsenda fyrir kjarabótum.

Í þessu ljósi er vert að minnast hlutverks Alþýðubandalagsins og Alþýðuflokksins. Er nokkur vafi á að þeir leika hlutverk hækkunar fyrir auðstéttina? Í því vilja flestir stuðningsmenn þessara flokka áreiðanlega ekki eiga neinn þátt.

# Ráðstefna um sumarbúðir

## Áríðandi

Í fyrrasumar hélt Verkalýðsblaðið tvennar sumarbúðir, þar sem sameinuð var stjórnmálaumræða, útivist og menningariðkan. Var það mál þátttakenda að búðirnar hafi í höfuðatriðum verið vel heppnaðar og mikil lyftistöng framsæknum og kommúnísku starfi.

Nú í sumar verður enn á ný efnt til sumarbúða - líklega þriggja - þar af einna sem kalla má ferðabúðir, því farið verður fótgangandi milli áningarstaða á 5 dögum.

EIK(m-l) og Verkalýðsblaðið þarfnast aðstoðar þátttakendanna frá í fyrra og sem flestra annarra - sérstaklega þeirra sem hyggjast fara til sumarbúðanna í sumar - við skipulagningu sumarbúðanna. Í því skyni verður ráðstefna haldin í Reykjavík 17.maí kl.20[30] (fimmtudagur)í Domus Medica v/Egilsgötu (litli salur)

Á dagskrá verður ma. samantekin reynsla sumarbúðanna síðustu árin, umræða um starfshætti þeirra, umræður um og ákvörðun efnis (t.d. alþjóðaástandið) búðanna í sumar og skemmtiefni. Einnig verður stutt kynning á sumarbúðastarfinu. Kaffisala.

Mætum vel!

Umsjónarnefndin


Börnin settu svip sinn á sumarbúðirnar 1978.

# Dagvistarsamstarfið
# *Söfnun heldur áfram*

Staðan í undirskriftasöfnuninni er nú rúm 5.ooo. Þetta er aðeins þriðjungur þess sem til stóð að safna, svo að ljóst er að nú þarf að gera stórt átak. Söfnuninni átti að vera lokið, en hún hefur nú verið framlengd. Mjög margir þeirra sem hafa fengið lista til að safna á, hafa síðan ekki látið heyra í sér.

**HERFERÐIR**

Nokkrar undirskriftaherferðir hafa verið farnar, og hafa þær gefist vel. Hafa þá bæði verið farnar herferðir við fjölfarna staði, s.s. í miðborginni og við ýmsar verslunarmiðstöðvar, og í íbúðarhúsahverfi. Það er mjög gaman að taka þátt í þessum herferðum, vegna þess hversu vel fólk tekur í að skrifa sig á listana. Við eina verslunina söfnuðu tveir eitt sinn 16o nöfnum á 1 1/5 klst. Í herferð í Breiðholti safnaði einn þátttakandinn 6o nöfnum á 1 klst.

Miðvikudagskvöldið 9.maí verður herferð í Breiðholti. Þátttakendur safnast saman í Sokkholti kl.19.3o og fara saman á bílum í Breiðholtið. Látið vita um þátttöku ykkar í s.75883 (Nanna)

Vikan 14-20.maí verður svo herferðarvika. Hægt er að skrá sig til þátttöku í s. 75883, en einnig verður reynt að hringja í alla, sem nálægt starfinu hafa komið.

Markmiðið sem sett var í upphafi var 15-2o þús. undirskriftir. Því er hægt að ná, ef allir leggjast á eitt.

Sýnum hug okkar í verki til kröfunnar um næg og góð dagvistarheimili fyrir öll börn. Tökum þátt í starfinu!

Heimilisfang samstarfshópsins er Sokkholt, Skólavörðustíg 12, Reykjavík. Þangað er hægt að skila peningum fyrir seld merki, skila útfylltum undirskriftalistum og fá nýja, og skrá sig í herferðir.

Skrifstofutími samstarfshópsins er fimmtudagar kl. 17.30-18.30.




# Mikilvæg orðsending frá Október

Októberbúðin í Reykjavík er lokuð um óákveðinn tíma. Húsnæði búðarinnar að Óðinsgötu 30 hefur fengið nýjan eiganda frá 1.maí og fyrir honum varð búðin að víkja með mánaðarfyrirvara. Opnuð verður búð á nýjum stað um leið og viðunandi húsnæði fæst.

Allir velunnarar Októberforlagsins, Verkalýðsblaðsins og Einingarsamtakanna eru hvattir til að hafa augun hjá sér og láta vita að Baldursgötu 7A (skrifstofa VB opin þriðjudaga kl. 5-7) eða í pósthólf 5186,125 Rvík, ef þeir hafa spurnir af hentugu húsnæði fyrir Október á miðbæjarsvæðinu.

# Söluherferð í Reykjavík

Dreifingarstjórn VB gekkst fyrir söluherferð á blaðinu í miðbæ Reykjavíkur föstudaginn 28.apríl. Sönghópur hélt uppi söng og hljóðfæraslætti í Austurstræti, tvær "burstir" með auglýsingum um blaðið voru á staðnum og fjölmargir sölumenn voru hér og þar um bæinn. 50-60 blöð seldust og aðgerðin vakti mikla athygli. Sérstaklega gerði sönghópurinn lukku. Helstu veikleikar aðgerðarinnar lágu í því að of fátt fólk tók þátt í undirbúningi aðgerða.

Ætlunin er að hafa hliðstæðar söluherferðir í miðbænum annanhvorn föstudag í vor og sumar, og verður sú næsta, föstudaginn eftir útkomu þessa blaðs, 11.maí.

Að kvöldi 10.maí verður unnið að undirbúningi á Baldursgötu 7A og er fólk hvatt til að koma og hjálpa til. Söluherferðin stendur yfir frá kl. 4-6 síðdegis á föstudögum.

# Tilkynning

Frá stjórn 8.mars-hreyfingarinnar til þeirra liðsmanna sem ætla að taka þátt í ráðstefnu hreyfingarinnar: Ráðstefnan verður laugardaginn 12.maí að Hallveigarstöðum v/Túngötu, og hefst kl. 10 árdegis.

Hægt verður að kaupa kaffi og brauð/kökur á staðnum yfir daginn.

Liðsmenn eru beðnir að hringja í s. 32494 og tilkynna þátttöku og fá þá dagskrá.

# Peningana

Frh. af bls. 3

sýnist helst hallast að því síðara e.t.v. með viðaukum um að vinnutími kennara verði í aðalkjarasamningi, bandalagið fái sæti í stjórn lífeyrissjóða og aðild að atvinnuleysistryggingarsjóði.

Allavega er ljóst að ríkið beitir hálfgerðum "gangsteraðferðum" en launamálaráð verst lítið og virkjun félagsmanna er í lágmarki. Afsal 3%-hækkunarinnar er alrangt, en um ákv. þætti mögulegs samkomulags samninganefnda skal ekkert sagt nú. Ef af verður kæmi til atkvæðagreiðsla og fundarhöld svipað og í BSRB.

Fréttaritari.



# Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum

## Kristján Thorlacíus og ríkisstjórnin:

# Hinir nýju siðferðispostular launafólks

Í leiðara Þjóðviljans 27. apríl s.l. sem bar yfirskriftina "3% og BSRB", setti málgagn sósíalisma og verkalýðshreyfingar fram afstöðu sína til hagsmuna- og réttindabaráttu launafólks í landinu. Er leiðarinn skrifaður til stuðnings jámönnum BSRB-samkomulagsins. Hér á eftir verður fjallað um nokkur atriði sem fram koma í leiðaranum. Vegna rúmleysis getum við ekki tekið fyrir öll atriðin þó vissulega væri þörf á því. Því viljum við hvetja félaga BSRB og allt annað launafólk til að lesa þennan leiðara og kynnast af eigin raun sýnishorni af málflutningi þeirra sem kenna sig við alþýðu þessa lands og segjast gæta hagsmuna hennar a.m.k. fyrir kosningar:

Í upphafi leiðarans setur Þjóðviljinn fram þjóðfélagsgreiningu á opinberum starfsmönnum og var ekki seinna vænna að sú greining sæi dagsins ljós. Þar segir "Enginn rök liggja lengur því til grundvallar að opinberir starfsmenn séu einhver embættismannahópur hálaunafólks, því í BSRB eru 14.600 félagsmenn og þar af eru konur í meirihluta". En þrátt fyrir fyrrnefnda greiningu kemst Þjóðviljinn að eftirfarandi niðurstöðu: "Það er því ljóst að BSRB-félagar sem hafa nýverið fengið þaklyftingu og hafa tiltölulega góða samninga miðað við ASÍ-félaga eru ekki í sérstaklega sterkri siðferðislegri stöðu til þess að auka enn á misræmi milli ASÍ-taxta og BSRB-taxta." (undirstrikun okkar).

Það andar aldeilis hlýju í garð opinberra starfsmanna í þessari málsgrein. Fyrir það fyrsta eiga þeir að fyllast þakklæti í garð ríkisvaldsins fyrir að vísitöluþakinu skyldi lyft af þeim tæpum 10% félaga BSRB sem sátu uppi með það. Í öllum leiðaranum er hins vegar varla minnst einu orði á það ríkisvald sem skellti þessu þaki á og rauf þar með gerða samninga. Ekki heldur á það að þetta sama ríkisvald hyggst 1. júní n.k. smíða nýtt þak sem er svo flatt og lágreist að laun flestra félaga BSRB verða þar skorin niður við trog.

Sú kveðja sem BSRB-menn fá frá "blaði verkalýðshreyfingar" er sú að þeir séu valdir að launamisréttinu í þjóðfélaginu. Siðferðisleg staða þeirra er ekki nógu góð til þess að ríkisvaldið geti staðið við gerða samninga við þá. Það er siðferði hópa eins og t.d. póstmanna, sjúkraliða, fóstra o.fl. slíkra sem er í hættu ef þeir fá umsamdar launabætur. Já Þjóðviljanum er svo sannarlega annt um siðferði alþýðunnar. Siðferði atvinnurekenda og ríkisvalds þeirra, sem skammta verkafólki allt niður í 160 þúsund krónur fyrir mánaðarvinnu, laun sem hvergi nærri nægja til lífsframfæris, varðar hann hins vegar ekkert um.

Þjóðviljinn spyr ekki einu sinni að því hvernig skyldi **standa á svona lágum launum**



**Kýs þessi stjórn að kalla sig "siðferðisríkisstjórn** launafólks"?

í þjóðfélaginu. Og þó - í leiðaranum er svar hans við því: "Nú hafa engar grunnkaupshækkanir átt sér stað til ASÍ-félaga, þvert ofan í það sem áður var gert ráð fyrir vegna ýmissa ráðstafana stjórnvalda í launamálum". Ráðstafanirnar hafa sem sagt stuðlað að því að hindra fyrirhugaðar grunnkaupshækkanir til láglaunafólksins eða hvað? Og ráðstafanirnar halda áfram. Auðvaldinu dugar ekki lengur að framlengja gildistíma samninga, dreifa félagsmálapökkum (verðlögðum af því sjálfu) í stað verðbóta, heldur á nú einnig að fá launafólk til að afsala sér umsömdum launahækkunum. Og nú eru ráðstafanirnar ekki lengur gerðar vegna slæmrar afkomu þjóðarbúsins, heldur til að lappa upp á bágborið siðferði launafólks.

Forysta ASÍ gekkst inn á **það í haust að halda niðri** kjörum sinna manna með því að framlengja gildistíma samninga og setja ekki fram kjarakröfur þótt samningar væru lausir. Einnig þakkaði hún fagnandi fyrir að fá félagsmálapakka í stað vísitölubóta. En ekki nóg með það. Forysta ASÍ gekk líka fram fyrir skjöldu í því að skerða kjör annars launafólks með því að krefjast vísitöluþaks o.fl. þegar ríkisstjórnin var mynduð í haust. Þegar forysta BSRB hvatti félagsmenn sína til að afsala sér 3% var ein röksemdin sú að annars færi ASÍ af stað með kjarakröfu.

Þannig vinnur verkalýðsforystan leynt og ljóst með borgarastéttinni, ríkisvaldi hennar og þingflokkum að framgangi kjararýrnunarstefnu.

Atvinnurekendur og ríkisvald þeirra gera allt sem þeir geta til að reyna að draga úr mætti verkfallsvopnsins og tvístra samstöðu launafólks. Ein leið ríkisvaldsins er að sníða verkfallsrétt BSRB að eigin þörfum en önnur leið er að smeygja stéttasamvinnu- og úrtölumönnum inn í raðir launafólks. Og þar nýtist Þjóðviljinn því vel. Eða svo notuð séu orð leiðarans: "Hafni þeir þeim kosti (að afsala sér 3% - innskot okkar) verður að sækja aukinn samningsrétt með allsherjarverkfalli og reynslan sýnir að það er torsótt. Fái þeir hins vegar aukinn samningsrétt nú, næst strax svigrúm til að sækja á um að ná 3% fórninni upp aftur og svara kjaraskerðingartilraunum stjórnvalda á skeleggan hátt." Já, reynslan sýnir að í réttindabaráttunni dugar verkfallsvopnið og samstaðan skammt, segir Þjóðviljinn. Hins vegar á ríkisvaldið alls konar "verjur" á lager sem gætu reynst betur og eru auk þess falar fyrir lítið fé. Komið strax og kaupið því með sumrinu mun verðið fara ört hækkandi vegna verðbólgu og aukinnar eftirspurnar.

# ASÍ afhenti PAC 200 þús. kr.

"Samtök okkar vinna stöðugt að eflingu fjöldabaráttunnar, fyrst og fremst "neðanjarðar". Hversu víðtækt og rismikið starfið er hverju sinni fer meðal annars eftir því hve öflugur sá stuðningur er sem við njótum erlendis frá. Ísland styður baráttu okkar óbeint, en ég vonast til að bráðum muni ísl. stjórnvöld hefja beinan stuðning líkt og stjórnvöld Noregs, Danmerkur og Svíþjóðar".

Þetta kom fram í máli Count Pietersens, fulltrúa frelsissamtakanna Pan Africanist Congress í Azaníu (Suður-Afríku) á blaðamannafundi í Reykjavík nýlega, en hann var hér á ferð á vegum samtaka sinna til að afla þeim frekari stuðnings frá Íslandi. Pietersen átti viðræður við Benedikt Gröndal, utanríkisráðherra, og lét vel af þeim. Einnig hitti hann að máli Snorra Jónsson, forseta Alþýðusambands Íslands, en árangur þeirra viðræðna var m.a. 200 þús. kr. framlag ASÍ til baráttu PAC gegn kynþáttastefnu og ógnarstjórn hvíta minnihlutans í Azaníu. Lét Pietersen í ljós ánægju með árangurinn af ferðinni og kvaðst vona að PAC ætti eftir að njóta enn frekari stuðnings héðan af Íslandi. EIK(m-l) hafa átt vinsamleg og góð samskipti við PAC undanfarin ár. Haustið 1976 komu tveir félagar PAC til Reykjavíkur í boði EIK(m-l) og héldu opinn fund um málefni lands síns. Þá beittu EIK(m-l) sér fyrir fjársöfnun til PAC.

## PAC 20 ára

Um þessar mundir eru liðin 20 ár frá stofnun Pan Africanist Congress of Azanía og hefur þess verið minnst víða um Afríkulönd, m.a. á þingi Einingarsamtaka Afríkuríkja í Nairobí í Kenya.

Count Pietersen sagði á blaðamannafundinum, að kynþáttakúgararnir í Azaníu (Suður-Afríku) hertu sífellt ofsóknir á hendur félögum PAC (sem starfa ólöglega í landinu) og öllu baráttufólki gegn kúguninni. Fjöldi góðra baráttumanna PAC hefur lent í svartholi kúgaranna og einmitt fyrir stuttu síðan voru réttarhöld yfir fangelsuðum PAC-félögum úr Soweto-uppreisninni, svokölluðu.

Stuðningskveðjur og framlög til PAC sendist til:

PAC Mission to the Nordic Countries, Postboks 9180, Vaterland, Oslo 1, Norway.

"Skilaðu bestu kveðju til lesenda Verkalýðsblaðsins og ég vona að þið munuð ætíð halda rauða fánanum hátt á lofti", voru kveðjuorð Pietersens.

# Styðjum baráttu farmanna

Útlit er fyrir að verkfall yfirmanna á kaupskipum verði langt og strangt, og þá sérstaklega eftir að atvinnurekendur hafa boðað verkbann á undirmenn frá 10. maí. Atvinnurekendur hafa haldið uppi linnulausu áróðursstríði í fjölmiðlum gegn sjómönnum til þess að gera kjarabaráttu þeirra tortryggilega í augum almennings. Atvinnurekendur hafa lagt á borðið opinberlega stórkostlega falsaðar tölur, sem eiga að sýna fram á "yfirgengilega kröfupólitík" sjómanna. Birgir Bachmann stýrimaður er einn þeirra sem svarað hefur lygum atvinnurekenda. Hann segir:

"Ég er 2. stýrimaður á byrjunarlaunum í 4. flokki, 233.573 kr. á mánuði fyrir 40 stunda vinnuviku. Ég þykist viss um að maður sem vinnur í landi 40 stundir á viku þættist ekki ofsæll af þessum mánaðarlaunum.

Um yfirvinnu þarf varla mikið að fjasa því úr henni hefur verið dregið markvisst.... Yfirvinnutíminn er 2.398 kr. hjá mér á hærri taxta en 1.499 á lægri taxta. Í flestöllum tilfellum er yfirvinnan þó unnin utan dagvinnutíma."

Yfirmenn leggja áherslu á kröfur sínar um grunnkaupshækkun, en auk þess að fá viðurkennt vaktaálag. Slíkt er greitt í landi og þykir sjálfsagt, en stýrimenn og vélstjórar, sem eingöngu vinna vaktavinnu, fá ekkert vaktaálag.

Kjarabarátta sjómanna á farskipum er fyllilega réttmæt og hún verðskuldar stuðning. Sérstaklega er brýnt að vera á verði gagnvart ósvífnum áróðri atvinnurekenda, sem miðast að því að ljúga upp eða rangfæra gróflega kröfur sjómanna og núverandi kjör.

## Ríkið við BHM:

# „Peningana eða . . . . .“

Frh. á bls. 2

Eftir að hafa beðið undirritunar samninga BSRB-forystunnar um breytingu á verkfalls- og samningsrétti, gerði ríkið Bandalagi háskólamanna tilboð. Gegn því að fallið yrði frá 3% kauphækkun (umsaminni) 1.apríl sl. skyldi BHM fá einhvern samnings- og verkfallsrétt. Samninganefnd ríkisins tilkynnti um leið að hún væri ekki til viðtals um annað - þ.e. aukin réttindi og umsamda kauphækkun. Var í þessu fólgin hótun um að taka kauphækkunina af BHM-mönnum með lagasetningu.

Launamálaráð BHM beygði sig fyrir þessu, veitti m.a. gjaldfrest á kauphækkunina meðan verið væri að koma henni burt - og hafði til þess umboð mjög fárra félaga (a.m.k. var haldinn fundur í H.Í.K., en hann gaf ekki umboð til að versla með kauphækkunina).

Í ljós kom að samninganefnd BHM voru gerðir tveir kostir síðan. Annað hvort að BHM fengi ekki verkfallsrétt á aðalkjarasamning, en takmarkaðan verkfallsrétt á sérkjarasamninga sem þá tækju aðeins yfir röðun starfsheita og röðun í launaflokka (launaupphæð í aðalkjarasamningi). Þetta er svipað og samkomulag BSRB-forystunnar felur í sér.

Nú - eða þá að aðalkjarasamningur taki yfir það sama og nú, en þá ekki yfir vinnutíma, launaflokkaröðun, og fl. og að takmarkaður verkfallsréttur komi á hann, en ekki á sérkjarasamninga.

Ekki er vitað um félagsfundi hjá aðildarfélögum launamálaráðs BHM um tilboðin, en launamálaráð

# horn í síðu

Svo er að sjá sem smáauglýsingin í síðasta þætti hafi hrifið. Vonandi er ekki enn séð fyrir endann á því. Rauðmundur nokkur sendir oss heilt ljóðabréf sem því miður er ekki hægt að stytta. Það birtist því allt hér.

Undirritaður tók til í draslinu heima hjá sér, eins og hann gaf í skyn í síðasta þætti. Það hefur sennilega verið of vel gert, því ekki fannst bréfið frá aðdáanda Horns í Síðu. Aðferð gagnrýni og sjálfsgagnrýni kemur hér að góðum notum:

Er á Horni ærið brokk:
öllu ég niður týni.
Því er ráð að stíga á
stokk
og stunda sjálfsgagnrýni.

Um daginn voru könnunarviðræður auglýstar hér í blaðinu milli EIK (m-l) og KFÍ/ML (stundum nefnt flokkstetrið). Ekki leist undirrituðum á:

Að mér steðjar eining ný.
Afturgöngur rísa.
EIK (m-l) og annað þý
í eina rekkju fýsa.

Er félagi minn einn heyrði þessa vildi hann gera bragarbætur.

Að mér steðjar eining ný.
Er mér fátt til svara.
Við kommúnistískt kelerí
ég Kristján sé og Ara.

Þriðji félaginn, maóískur -að sjálfsögðu-, sem ég bar þetta undir vildi gagngerar breytingar. Honum fannst pólitíkin fyrir neðan allar hellur:

Að mér steðjar eining ný.
Enginn skyldi sýta,
þótt það sé kreist úr KFÍ
sem kannske mætti nýta.

Þá er best að snúa sér að bréfi Rauðmundar:

VERKALÝÐSBLAÐIÐ

Blaðið mitt þig brýni ég
beittu þínu letri.
Þú skalt okkur vísa veg
í veröld miklu betri.

Þú mátt enga þola töf
þreytu útiloka.
Auðvalds til að grafa gröf
gakktu fram - að moka.

Lyftu upp úr lygaskóg
lýðsins skýra rétti,
komdu upp um Óla Jó
og hans ljótu pretti.

Um ASÍ með illan sið
aldrei máttu þagna.
Þar er mammons málalið
mútað upp til agna.

Hvettu lýð sem lágt í vök
lengi hefur varist.
Sýndu kjör að sönnu lök.
Segðu hvar er barist.

Gervikommum klekktu á
og krötum allra handa.
Leigumenn sem lýðinn hrjá
láttu bera standa.

Risavelda valdapríl
víða hefur smogið.
Rússa og Kana skósveinsskríl
sker við sama trogið.

Málgagn fólksins mikinn rær
móti straumi og flúðum.
Í þér líf og línur tvær
láttu vaða á súðum.

Roði austur rennur að
róður mátt þó herða
ef alþýðunnar óskablað
ætlar þú að verða.

Rauðmundur.

Við þetta mætti kannske bæta:

Ef að blaðið bitna skal
á blauðum mammonsaðli,
meir þarf háð og minna hjal
og minnst af frasavaðli.

Hornklofi

# Eimskip

frh. af forsíðu

okkur, en Verkalýðsblaðið hafði samband við hann vegna öryggismálanna. Mánudaginn 7. maí hætta 18 verkamenn við höfnina störfum, margir eftir áratuga starf hjá Eimskip. Þetta eru elstu starfsmennirnir. Þeim var sagt upp með eins mánaðar fyrirvara, og forstjórum Eimskips lá mikið á að segja þeim upp strax, því að von er á nýrri löggjöf sem segir fyrir um 3 mánaða uppsagnarfrest. Gvendur Jaki hefur allt til þessa dags dregið úr verkamönnunum að gera eitthvað í málinu, sagt þeim að Dagsbrún mundi kippa þessu í lag, þannig að þeir fengju a.m.k. lengri uppsagnarfrest. En Dagsbrún hefur ekkert gert. Svik Dagsbrúnarforystunnar í þessu máli sem öðrum hefur vakið mikla andúð og reiði meðal verkamannanna hjá Eimskip.

# Nýr Rauðliði kominn út

# „Yfirstandandi kreppa ... 2. heimsstyrjöldinni“

1.-2. tölublað RAUÐLIÐANS 1979, fræðilegs og menningarlegs tímarits EIK(m-l) kom út 1. maí og var selt í lausasölu í Reykjavík þann dag. Í ritinu eru að þessu sinni forvitnilegar greinar um þjóðerni og sjálfsákvörðunarrétt þjóða, síðari hluti ræðu Maós um lýðræðislegt miðstjórnarvald, sameiginleg ályktun EIK(m-l) og Kommúnistasamtaka Kanada (marx-lenínista), "Ef hákarlarnir yrðu að mönnum" eftir Bertold Brecht, "Til dóttur minnar" eftir Katjönu Edvaldssen og síðast en ekki síst athyglisverð grein um efnahagsmálin á Íslandi og kreppu auðvaldsskipulagsins hér. Þar er fyrst fjallað almennt um kenningar marxismans um kreppuþróun auðvaldsins, en síðan sértækt um kreppuþróun á Íslandi. Máli sínu til stuðnings vitnar greinarhöfundur í ýmsar opinberar töflur og skýrslur. Hann slær föstu, að "efnahagsvandamálin sem ríkisstjórnir auðvaldsins hafa átt við að glíma hér á landi á undanförnum árum, eru í eðli sínu offramleiðslukreppur". Orðrétt segir:

"Þegar efnahagsmálin eru skoðuð hér á landi verður að taka tillit til eftir-




farandi atriða.

1. Flutt er út um 40% af því sem framleitt er og um 40% af því sem notað er til framleiðslu og einkaneyslu er flutt inn til landsins.
2. Um 75-80% af því sem flutt er út eru sjávarafurðir. Útflutningur mikilvægustu útflutningsafurða eru í höndum einokunaraðila sem skammta sér meira og minna það verð sem þeir borga fyrir afurðirnar.
3. Einokunarauðvaldið hér á landi miðar allar sínar fjármálaaðgerðir við það að flytja út vöru og þjónustu á erlendan markað.

# Í minningu verkamanns

Eftirfarandi ljóð og meðfylgjandi formálsorð flutti Kristinn Einarsson á fundi Sameiningar 1. maí í Sigtúni þann 1. maí. Blaðið fékk góðfúslegt birtingarleyfi og flytur höfundi þakkir.

Góðir áheyrendur og félagar um starf þessa dags. 17. apríl síðastliðinn varð slys um borð í Tungufossi. Bóma féll niður með þeim afleiðingum að einn verkamanna við affermingu hlaut bana af. Öryggi var ábótavant, og kvörtunum verkafólks ekki sinnt. Þung orð hafa einnig fallið í garð forystu viðkomandi verkalýðsfélags fyrir deyfð í þessu sem öðru.

Ég les hér ljóð sem ég orti til að setja þennan atburð í samhengi fyrir mér og kannski öðrum:

Það er vor í lofti, vetrarlok yfir bænum
vinnan sækist betur, styttra í glens.
Svo mörgu smálegu er minnsta von okkar bundin.

En skyndilega er skýjum hrannað í loft
skapadægur eins sýnir nekt þess valds
er deilir kjörum og drottnar í skjóli auðs.

Eitt skapadægur í skipi niðri við höfn
skyldur, réttur, virðing - þau orð fá dýpt
í spurn sem vaknar og sprengir fram vort svar:

Hverjum í hag er hverri spurningu æðri.
Hvað er eitt líf fyrir stétt sem telur fram
prósentuhlutfall dauðans í peningamissi?

Barátta okkar og brauðstrit er lífinu háð
og banahótanir koma okkur víða að.
Stéttasamvinnan stýrir einnig í dauðann.

Fyrsta maí verða fleiri myndir að einni
við finnum samstöðu í baráttu þessa dags
í upphafi stríðsins sem endi þess gamla boðar.

## Frá ritstjórn

Verkalýðsblaðið biðst afsökunar á að eitt nafn féll niður úr frétt 8. tbl. um Andóf - 79. Gleymdist að geta þess að hringja mætti í Pétur Pétursson

Andóf '79

# Til fundar Andófs '79

Styðjum heilshugar baráttu ykkar. Í henni felst réttmætt andóf gegn kjararánsstefnu og árásum á lýðréttindi vinnandi fólks.

Starf ykkar og stuðningur við Andóf '79 meðal fólks er gott fordæmi öllu vinnandi fólki.

F.h. framkvæmdanefndar
miðstjórnar EIK(m-l)
Ari Trausti Guðmundsson

# Verkfallsbylgja u...

Verkalýðsblaðið hefur lítið sinnt mörgum hlutum heims í skrifum sínum um utanríkismálefni. Er hér fyrst og fremst um að kenna plássleysi. T.d. höfum við að mestu leyti látið hjá líða að greina frá baráttu verkalýðs og vinnandi alþýðu á Norðurlöndunum. Þetta er slæmt m.a. vegna þess að af baráttunni þar er margt að læra fyrir okkur.

Þrátt fyrir lögbönn á verkföll og launahækkanir hefur vinnandi fólk á Norðurlöndum unnið stóra sigra í verkföllum.

Í Svíþjóð voru háð 166 verkföll árið 1978. Nú í marsmánuði einum voru háð 63 verkföll þar sem um 17.500 manns tóku virkan þátt.

Í Noregi hefur vart sá dagur liðið að ekki sé verkfall einhversstaðar. Þar sem öll þessi verkföll eru dæmd ólögleg, fá verkamenn ekki greiddan verkfallsstuðning úr verkfallssjóði Alþýðusambandsins. Um árabil hefur því starfað verkfallsstuðningshreyfing, sem skipulagt hefur, ásamt þeim verkamönnum sem í verkfalli eru fjársafnanir á götum úti, í íbúðahverfum og á vinnu-

## Samtíningur

### Álkuklúbburinn

Heyrst hefur að Álkuklúbbur Þjóðviljans sé að leysast upp vegna þess að nokkrir fálkar hafa upp á síðkastið lagt álkurnar upp í Síðumúla í einelti og étið þær sumar.
Er einsýnt að Alþýðubandalagið muni af þessum sökum fækka mönnum sínum á þingi en ekki bíða næstu kosninga.

Í ráði er að láta Fálkaklúbbinn leysa Álkuklúbbinn af. Formaður hans verður ekki Hannibal Örn Fannberg heldur Árni Karl Kratfells. Umsóknir um þátttöku sendist miðstjórn Alþýðubandalagsins merkt: "Upplitun rauðra og íslenskra fána".

### Varla kindabyssur

Það sagði okkur maður sem þekkir mann, sem er skyldur íslenskum lögreglumanni að lögreglumönnum sé allt að því heimilt að eiga - eða hafa undir höndum utan æfingarsvæðis - ólögleg skotvopn, svo sem skammbyssur. Skyldu mennirnir hafa gleymt að skila vopnunum þegar þau voru innkölluð hér um árið eða..........

### Eru þeir allir eins

Sagt er að það sé enginn munur á því að vera í einhverjum þingsalaflokkanna. Maður þarf ekkert að gera, ekkert að segja, ekki einu sinni að borga félagsgjöld. Og maður getur meira að segja kosið hvernig sem maður vill bara ef maður brosir til þeirra sem eru að krota í íbúaskrárnar og fylgjast með smöluninni á kosningastað.
Eini greinanlegi munurinn felst í því að í Sjálfstæðisflokknum fær maður jóla-

# a sú versta síðan í

Til að tryggja markaðsaðstöðu sína og hámarksgróða hefur einokunarauðvaldið komið sér upp hér á landi arðránskerfi bandarískra einokunarauðhringja í löndum þriðja heimsins. Lítill og einhæfur markaður hér innanlands, gerir það að verkum að fjárfestingarmöguleikar einokunarauðvaldsins eru takmarkaðir og leggur það því allt kapp á að fjárfesta erlendis, annað hvort í eigin fyrirtækjum eða kaupa hlutabréf í erlendum fyrirtækjum".

Greinarhöfundur rekur síðan "hagvaxtarsveiflur" auðvaldsins á síðasta og yfirstandandi áratug og sýnir fram á í hvaða geirum framleiðslunnar hefur verið offramleiðsla á ákveðnum tímabilum, í hvaða geirum hefur verið uppgangur o.s. frv. Grein sinni lýkur hann með eftirfarandi orðum:

"Kreppan, sem nú er hjá auðvaldinu, er eins konar framhald af kreppunni, sem skall á árið 1974, og má gera ráð fyrir , að sú offramleiðslukreppa, sem nú stendur yfir muni verða sú dýpsta, sem íslenskt auðvald hefur komist í síðan annarri heimsstyrjöld lauk. Auðvaldið með ríkisvald sitt fararbroddi hefur þegar gengið á alla varasjóði og nýtt alla þá möguleika, sem það hefur til að linna mestu áhrifum kreppunnar, og því blasir við, að auðvaldið grípi til gömlu, góðu íhaldsúrræðanna, þ.e. atvinnuleysis og eyðileggingar á framleiðslutækjum og öðrum verðmætum til þess að komast út úr kreppunni og getað byrjað upp á nýtt, eins og eftir kreppuna 1967-1969.

Aðgerðir vinstristjórnarinnar á undanförnum vikum og mánuðum sýna, að stefnt er markvisst að því að bregðast við kreppunni með gömlu íhaldsúrræðunum, enda hefur auðvaldið ekki um aðra leið að velja, þegar allt kemur til alls.

Spurningin er aðeins, hversu mikla mótstöðu vinnandi alþýða er fær um að veita, þannig að auðvaldinu takist ekki að velta byrðum kreppunnar yfir á herðar alþýðu eftir eigin geðþótta".

Lesendur VB eru hvattir til að kaupa Rauðliðann og gaumgæfa innihald hans. Hann kostar í lausasölu 1600 kr., en áskrift fyrir 4 tölublöð er kr. 3000. Á meðan Októberbúðin er lokuð ( sjá á öðrum stað í blaðinu) má skrifa í pósthólf 5186, 125 Rvík, eða koma á skrifstofu Verkalýðsblaðsins kl.5-7 á þriðjudögum, hún er á Baldursgötu 7 A.

# um Norðurlönd

stöðum. Þessi hreyfing hefur unnið það afrek að ekkert verkfall hefur leyst upp vegna þess að verkamenn hafi ekki fengið nauðsynlegt fé til að framfleyta fjölskyldum sínum, heldur hefur verið hægt að halda verkfalli gangandi þar til sigur er unninn. Nemur söfnunarféð á stundum mörg hundruð þúsund Nkr. á viku.

Enn er það atriði sem við getum e.t.v. lært mest af baráttufélögum okkar á Norðurlöndum, en það er hvernig stéttarfélög sem lítið hefur farið fyrir og verið nær óvirk eru byggð upp og gerð að beittum baráttutækjum. Slíkum félögum fjölgar stöðugt og þá um leið vex vitund alls þorra verkafólks á því hve nauðsynlegt er að stéttarfélögin séu virk baráttutæki.

Verkalýðsblaðið mun eftir megni greina frá því helsta sem á sér stað í baráttu félaga okkar á Norðurlöndum. Að mörgu leyti búa þeir við líkar pólitískar aðstæður og eiga við svipaðan vanda að etja. Við ættum því að nota góð fordæmi til að læra af þeim.

kort með prentuðu nafni Geirs (eða verður það Alberts?), í Framsókn fær maður almanak SÍS og Sölunefndarinnar, í krataflokknum lausafregn um að maður sé um það bil að verða þingmaður, en hjá Alþýðubandalagi minnisblað með öllu því sem er helv. íhaldinu að kenna.

## Stuldur

Í nýjasta innanfélagsblaði Rauðsokkahreyfingarinnar "Staglinu" segir Margrét Rún að Rsh. hljóti að taka það til athugunar hvort hún eigi að starfa meira með 8.mars-hreyfingunni og "auglýsa" hana með því móti. Það er kannski angi af þessari stefnu, sem birtist í því að Rsh. í síðasta tölublaði af Forvitin Rauð eignar sér könnun á fæðingarorlofi, sem hópur innan 8. mars-hr. vann.

# Stórfelld árás ...

Frh. af forsíðu

spurt um hvort húsnæði þoli slíka bekki.

b) Fækkun kennslustunda á viku um a.m.k. eina. Þetta skal gert án þess að það komi niður á magni þess námsefnis sem farið er yfir.

c) Minni valmöguleikar á efra stiginu þ.e. 7.-9. bekk, og fyrst og fremst í 9. bekk.

Um fleiri niðurskurðaratriði er að ræða.

Ljóst er að með þessu verður um verulega fækkun kennara að ræða. Það þýðir að færri kennarar eiga að kenna sama námsefni á styttri tíma - eða m.ö.o. mjög aukið vinnuálag. Aukið álag miðað við það sem nú er leiðir óhjákvæmilega til þess að stærri hluti námsins færist inn á heimili barnanna og eykur á álag foreldra. Reynslan sýnir að þar er ekki á bætandi vegna mikillar vinnu foreldra og vegna þess að margir foreldrar hafa takmarkaða innsýn í það nýja námsefni og þær kennsluaðferðir sem víðast hafa verið teknar upp.

Tilgangurinn með ráðstöfunum ríkisvaldsins er "sparnaður" á rekstri grunnskólans. Mun gert ráð fyrir að spara um 210 milljónir. Sé þessi tala umreiknuð í kennarastöður verða þær um 70 talsins, eða allir kennarar við tvo meðalstóra skóla. Í öllu skólakerfinu mun áætlað að spara miklu stærri upphæð eða allt að 450 milljónir, en það gera 130-150 kennarastöður eða alla kennara við 3-4 meðalstóra skóla.

Það er því augljóst að verulegt atvinnuleysi verður hjá kennurum næsta skólaár ef ríkisvaldið verður ekki hindrað í áformum sínum.

HRINDUM ÁRÁSUNUM Á KENNARA, NEMENDUR OG FORELDRA.

Kennarar! - við megum ekki láta ríkisvaldið grafa svona undan því sem við höfum byggt upp á undanförnum árum. Það var nauðsynlegt að setja grunnskólalögin, og það er nauðsynlegt að beita samtakamætti kennara til að sjá um að farið verði eftir þeim. Verði ríkisvaldinu að vilja sínum setur það stöðu okkar mörg ár og áratugi aftur í tímann, til þess tíma er 28-30 nemendur voru í bekkjardeild og kennslan einhæf. Stöndum á rétti okkar og stöndum saman um hagsmuni nemenda.

Nú hefur Samband grunnskólakennara hafið undirbúning aðgerða gegn stefnu ríkisvaldsins. Fulltrúaráð SGK hefur sent frá sér mótmælayfirlýsingu, sem birt er hér í heild, mynduð úr Félagsblaði SGK.

# – menning og listir

# Leikhús í þágu alþýðu

Fria Proteatern (Óháða alþýðuleikhúsið) er nafn á alþýðuleikhúsi sem starfar í Stokkhólmi. Það var stofnað 1971 en byrjaði í rauninni feril sinn 1968 með fyrsta hópleikverkefninu sem unnið var á Dramaten (elsta stofnunarleikhúsið í Stokkhólmi) og hét sá leikþáttur "Sígaunar" og fjallaði um samnefndan minnihlutahóp og lífskjör hans í velferðarríkinu Svíþjóð. Sýningin fékk góðar viðtökur og hópnum gafst tækifæri til að halda áfram starfseminni. Þá þótti meðlimum hans tímabært að næsta verkefni yrði helgað meirihlutahóp í þjóðfélaginu og gerði leikrit um og fyrir verkafólk. Félagsfræðilegar rannsóknir höfðu um þær mundir sýnt fram á að einmitt sá meirihlutahópur steig sjaldan fæti sínum í leikhús og sömu rannsóknir höfðu einnig dregið fram í dagsljósið ástæður þess að meirihluti fólksins í landinu - það fólk sem með vinnu sinni skapar allan auð og um leið fjármagnar leikhúsin - sótti ekki leikhús vegna þess að leikhúsin voru ekki því ætluð, fjölluðu ekki um það, léku ekki fyrir það. Stéttaþjóðfélagið Svíþjóð birtist vitaskuld einnig í leikhúslífinu. Þetta nýja leikrit sem hlaut nafnið "Nils Johan Anderson ofl." eða"NJA-þátturinn" var gert í samvinnu við verkafólk hjá "Norbottens Järnverk" og í þessari samvinnu mótuðust þær vinnuaðferðir sem upp frá því hafa verið leiðarljós Fria Proteatern en þær eru að gefa fólki því sem leikhúsið hyggst fjalla um og starfa í þágu sem áþreifanlegasta hlutdeild í leikstarfseminni. "NJA - þátturinn" varð afar sigursæll, sýningar urðu samtals 125, ca fjórum sinnum fleiri en þáverandi meðaltal sýninga Dramaten var. Leikhússtjórnin batt endi á hópvinnuna. Nokkrum meðlimum hópsins gafst þá tækifæri til að halda áfram starfseminni hjá Riksteatern (það er ríkisleikhús sem hefur enga aðalsenu neinsstaðar en ferðast mikið um) með fastráðnum leikhóp þar sem hét Proteatern og hafði starfað nokkur ár. Þar var sett upp leikritið "Verkfallið hjá Volvo" og varð það best sótta stykki ársins hjá Riksteatern. Leikhússtjórnin leysti hópinn upp.

En nú hafði það sýnt sig að áhugi var fyrir hendi hjá almenningi á þeirri tegund leiksýninga sem greinilega fengu ekki inni hjá stofnunarleikhúsunum og þá var Fria Proteatern stofnað. Starfsemi þess hefur upp frá því verið margs konar m.a. útvarps- og sjónvarpsþættir, útgáfa hljómplatna (7 talsins, m.a. "Typerna och Draken", "Sånger från Ljugarbänken", "Med vilken rätt" - fást í Októberversl. í Reykjavík), barna- og unglingaþættir ofl. en aðalverkefnin fram að þessu hafa verið 10 leikrit (71 -´78) þar af 9 skrifuð af rithöfundum Fria Pro, þeim Carsten Palmær og Gunnar Ohrlander og öll unnin í samráði og náinni samvinnu við fólk úr ýmsum atvinnugreinum. Miklar vinsældir og aðsókn hlaut sýning sem sett var upp haustið ´77 og hét "Hårda Bandage" þar sem heilsugæsla og kjör hjúkrunarfólks var tekið fyri . og fór leikhúsið í sýningarför um landið vorið ´78 með leikþáttinn og hyggst leggja upp í aðra för í vor með sama þátt. Haustið ´78 setti Fria Pro svo í fyrsta skipti upp sígilt leikrit "Puntilla og vinnumaður hans Matti" eftir Bertold Brecht og Hellu Wuoljoki og beitti þar með í fyrsta skipti vinnuaðferðum sínum við uppsetningu á fullunnu verki. Leikhópurinn samdi nýja tónlist og söngtexta við leikritið, tónlist Poul Dessaus sem hann samdi fyrir Brecht á sínum tíma var að mati hópsins ekki nógu góð miðað við núverandi aðstæður í Svíþjóð. Við gerð nýju söngvanna tók hópurinn mið af finnskri þjóðlagatónlist en leikritið gerist í Finnlandi 1928 og er alþýðugamanleikur. Bertold Brecht var sem kunnugt er róttækur höfundur síns tíma. Fria Proteatern lagði áherslu á pólitískt innihald verksins sem oft hefur verið látin sigla sinn sjó en sem fyrst og fremst birtist í hinni ósættanlegu móthverfu milli Puntilla stórbónda og vinnumannsins Matta og þeirri staðreynd að þrátt fyrir að Puntilla sýni mannkærleik og örlæti, mest í orði reyndar, þegar hann er drukkinn er hann þó ævinlega trúr sinni stétt og gerðir hans miðast ávallt við hagsmuni þeirrar stéttar og loks fer svo að Matti vinnumaður sér að öll samvinna við stórbóndann er skaðleg og tilgangslaus því þegar í hart fer sýnir hann stéttarbræðrum Matta enga miskunn jafnvel þótt fullur sé. Uppsetning Fria Proteaterns á þessu klassíska verki fékk ekki sérlega góðar viðtökur hjá borgarapressunni og var kannski ekki við því að búast. Hluti fasts áhorfendahóps leikhússins sem ánægður hefur verið með starfsemina undanfarin ár varð fyrir nokkrum vonbrigðum þegar leikhúsið sneri sér allt í einu að viðurkenndum höfundi í stað þess að halda áfram að skrifa leikþætti um málefni sem efst eru á baugi í þjóðfélaginu og hélt jafnvel að nú væri leikhúsið búið að snúa við blaðinu og ætlaði að byrja á sömu tuggunni og stofnunarleikhúsin. Margir áttu erfitt með að sjá hvernig hægt væri að tengja efni og boðskap leikritsins veruleika dagsins í dag en það var að sögn meðlima leikhússins ein aðalástæða valsins að þessu sinni. Öðrum þótti það augljóst mál og voru hrifnir af sýningunni. Í heild varð aðsóknin þó ekki nógu góð og lagði leikhúsið niður sýninguna í byrjun febrúar ´79. Má segja að miður hafi farið því þarna var um mjög athyglisverða tilraun að ræða og ekki oft sem Brecht hefur sætt svo díalektískri meðferð á sænskum leikhúsfjölum. Næsta verkefni leikhússins sem þegar er komið langt á leið er leikþáttur um innflytjendur, innflutt vinnuafl í Svíþjóð og áhrif þess á stéttabaráttuna m.a.

Fria Proteatern samanstendur nú af 20 fastráðnum starfsmönnum og hefur síðan ´74 haft fast aðsetur, "Scalateatern" í Stokkhólmi. Ákörðunarvald leikhússins er stórfundur, sem tekur ákvarðanir um stefnu leikhússins, efnisval, ráðningu starfsfólks og uppsagnir. Stórfundur er haldinn tvisvar í mánuði og þar mæta allir starfsmenn leikhússins. Ábyrgðin á daglegum rekstri hvílir á herðum sérstaks stjórnunarhóps sem kosinn er á stórfundi til eins árs í senn. Þrjár nefndir starfa svo undir stjórn stjórnunarhóps og mynda svokallaða "þrjá fætur" leikhússins sem bera uppi efnisvalið, áhorfendurna og fjármálin. Sérhver starfsmaður er meðlimur í einhverri af nefndunum.

Rósa og Þrúða

9. tbl. 5. árg. 9.maí-25.maí 1979



Lönd vilja sjálfstæði - þjóðir vilja frelsi - alþýðan vill byltingu

# Víetnam — Kína:
# Víetnamar halda uppteknum hætti

Svo kann að fara að kínverjar hefji nýjar aðgerðir gegn víetnömum við landamæri ríkjanna. Fyrir skömmu var svíinn Per Axelsson á ferð í Kína og heimsótti m.a. landamærahéröðin við Víetnam. Í hinu svokallaða Vináttuskarði, sem er helsta samgönguleið á milli landanna tveggja, sá Per Axelsson nýbyggð hernaðarmannvirki víetnama. Í viðtölum við fólkið sem býr við landamærin kom fram að enn halda víetnamar áfram að beina stórskotahríð inn í Kína. Í þorpinu Ai Kou, sem er sex kílómetra frá landamærunum, eru mörg hús löskuð vegna sprengjuregnsins. Í nokkrum tilfellum hafa víetnamar skotið sprengjum allt að átta kílómetra inn í Kína. Enn búa um 700 fjölskyldur fjarri heimilum sínum og vilja þær ekki snúa aftur til býla sinna vegna árásanna.

REIÐUBÚNIR AÐ GERA AÐRA GAGNÁRÁS

Við erum reiðubúin til að gera aðra gagnárás ef víetnömsku leiðtogarnir hafa ekki enn lært sína lexíu- segir fólkið í landamærahéröðunum við Per Axelsson.

Margt bendir til þess að víetnamska forystan ætli að halda uppteknum hætti. Gangur friðaviðræðanna hefur ekki verið sem bestur. Kínverjar hafa hafnað kröfum víetnama um vopnlaust svæði beggja vegna landamæranna. Þeir telja að leysa verði þann grundvallarágreining sem er til staðar varðandi legu landamæranna og að aðilar skuldbindi sig til að hætta öllum ögrunum. Vopnlaust svæði þýddi í raun áframhaldandi hernaðarástand. Nýjustu skotárásir víetnama sýna að enn reyna þeir að ögra kínverjum til átaka.

SOVÉTRÍKIN Á BAKVIÐ

Það fer tæplega á milli mála að kokhreysti víetnömsku leiðtoganna stafar af tengslum þeirra við Sovétríkin. Með þeim samningum sem Víetnam gerði við Sovétríkin í nóvember 1978 eru löndin skuldbundin til að aðstoða hvort annað ef á þau er ráðist. Ógnanir víetnama er einn liðurinn í því að láta líta svo út sem að Kína sé árásargjarnt og seilist til yfirráða í suðaustur-Asíu. Einnig á það að falla inn í þá áróðursmynd Sovétríkjanna sem segja að Kína sé ein helsta ógnunin við heimsfriðinn. Sú staðreynd blasir þó hinsvegar við að það eru Víetnam og Sovétríkin sem bera ábyrgð á ófriðar ástandinu í suðaustur-Asíu. Barátta alþýðunnar í Kampútseu og hernaður kínversku landamæraherjanna inn í Víetnam í febrúar og mars eru einu leiðirnar til að svara á verðugan hátt árásum og yfirgangi Sovétríkjanna og leppa þeirra.



**Þessa mynd tók Per Axelson** í þorpinu Ai Kou, sem se stendur sex kílómetra frá landamærunum. Verslun þorpsins sést hér sundurskotin af kúlum víetnamska stórskotaliðsins.

## Kampútsea:
# Skriðdrekar innrásarliðsins stöðvast á regntímabilinu

Sex mánaða langt regntímabil gengur nú í garð í Kampútseu. Á þessu tímabili mun hernaður víetnamska innrásarliðsins, sem er háður vélabúnaði s.s. skriðdrekum og beltisbílum, verða mjög erfiður. Þeir geta sig lítið hreyft nema eftir helstu þjóðvegum þegar að allt landið er svo að segja á floti. Hernaður víetnama hefur því að undanförnu miðað að því að uppræta eins mikið og mögulegt er af bækistöðvum hersveita Pol Pot-stjórnarinnar. Í Battambanghéraðinu telfdu víetnamar fram um 50.000 hermönnum, búnum sovéskum skriðdrekum gegn léttvopnuðum hersveitum stjórnarinnar. Sókn víetnama leiddi til þess að um 80.000 kampútseanar, mestmegnis bændur og búalið, hröktust undan að landamærunum við Tailand. Stór hluti þeirra fóru yfir landamærin en megnið af fólkinu er enn í Kampútseu og berst við hlið skæruliðanna og hermanna úr fastaher stjórnarinnar gegn víetnömsku innrásarherjunum. Leppstjórn víetnama undir forystu Heng Samrin hefur lýst því að Pol Pot sé flúinn yfir til Thailands, en bæði Thilandsstjórn og Pol Potsstjórnin (sem er hin eina löglega í Kampútseu) hafa borið þessar fréttir til baka.

REGNTÍMINN HAGSTÆÐUR

**Nghet Chhopininto, for**maður samtaka kampútseana búsettra í Frakklandi, sagði nýlega í blaðaviðtali að regntíminn væri hagstæður fyrir alþýðu Kampútseu. Þá gætu víetnamar ekki hreyft hernaðartól sín á jörðu niðri og flugvélar gætu lítið flogið vegna lélegs skyggnis. Það hefur í för með sér að skæruliðar og hersveitir stjórnarinnar geta átt auðveldara með að ráðast á innrásarherina. En jafnframt fæli regntíminn í sér erfiðleika við fæðuöflun fyrir alla landsmenn.

"DAUÐIR" LIFA!

Blaðamaðurinn Wilfred Burchett, sem nú er þekktur sem einn helsti talsmaður fyrir innrás víetnama í Kampútseu, birti í október s.l. lista yfir ellefu leiðtoga úr frelsisstríði kampútseana gegn bandarísku heimsvaldasinnunum. Þessir ellefu leiðtogar áttu allir að hafa verið teknir af lífi af Pol Potstjórninni samkvæmt upplýsingum Burchetts.

Nokkrir vinir Kampútseu í Frakklandi höfu strax eftirgrenslanir og reyndu að kanna örlög þessara manna. Hefur þeim tekist að sannreyna að fimm þessara leiðtoga eru við fulla heilsu - og eru tveir þeirra fulltrúar lands síns á hafréttarráðstefnunni í Genf. Athugun á högum hinna sex hefur verið erfið vegna innrásar víetnama. Þykir Burchett þessi nokkuð bíræfinn í skrifum sínum, sérstaklega þegar þess er gætt að á sama tíma og hann birti þennan "aftökulista" sinn þá var einn þeirra sem hann nefndi starfandi sem diplomat í New York!



**Chan Youran er einn af** fulltrúum Kampútseu á hafréttarráðstefnunni í Genf. Wilfred Burchett lýsti því yfir að Chan hefði verið tekin af lífi fyrir þó nokkru. (mynd: L'Humanite Rouge)

HENG SAMRIN HANGIR Í TÓMRI BORG

Fyrir skömmu hleyptu víetnamar vestrænum fréttamönnum til Phom Penh og sýndu þeim mannabein sem áttu að gilda sem sönnunargögn um fjöldamorð Pol Potstjórnarinnar. Lítið gagn er í slíkum sönnunargögnum í landi þar sem tæp milljón manna var drepin í hernaði bandarísku heimsvaldasinnanna fyrir rúmum fjórum árum. Það vakti meiri athygli fréttamannanna að í höfuðborginni bjuggu aðeins um 2000 íbúar. Ennfremur sögðu þeir að fyrir hvern einn hermann Heng Samrins væru tíu víetnamskir hermenn. Sést vel á þessu hvers eðlis þessi "stjórn" er - hún hefur ekki getað staðið við hið margfræga loforð sitt að íbúar borganna skyldu fá að snúa aftur - þeir láta ekki sjá sig á yfirráðasvæðum víetnama. Gangur baráttunnar sýnir að alþýða Kampútseu stendur einhuga að baki leiðtogum sínum, Pol Pot, Khieu Sampanh, Iegn Sary o.fl. , í baráttunni gegn innrás Víetnam.



**Hér sést hluti af 20.000** kampútseönum sem fóru yfir landamærin til Thaílands eftir stórsókn víetnama í Battambang-héraðinu. (Mynd: AP-fréttastofan)

# Sprengjuárásir á norska félaga

Svo sem fram hefur komið í fréttum, var gerð sprengjuárás á eina af 1.maí-göngunum í Ósló. Sú ganga sem hér um ræðir er ekki ganga norska Alþýðusambandsins, eins og hefur mátt skilja af fréttum, heldur aðalganga verkafólks í Ósló, ganga baráttusinna, "Faglig 1.maí-front". Margir meiddust og einn særðist lífshættulega.

Árásarmennirnir eru nýnasistar, félagar samtakanna "Norsk Front", pólitískir ættingjar bresku samtakanna

Framhald á bls. 7

# Skerfur lesenda




## Komdu til liðs við okkur, Bubbi Morthens!

Ég var á liðsfundi Sameiningar 1. maí og á Andófsfundinum í Félagsheimili stúdenta. Meðal dagskráratriða á báðum þessum fundum var að Bubbi Morthens söng. Mér líkar mjög vel við söng og stíl Bubba. Hann er kraftmikill og skilar textunum geysilega vel frá sér. Ég er ekki frá því að hann sé með þeim allra bestu á þessu sviði. Hann var t.d. ólíkt betri en Hjördís Bergs sem mér heyrðist vera orðin ansi þreytt. Textarnir sem Bubbi syngur finnst mér líka flestir góðir - raunsannar lýsingar og einlæg samstaða með verkalýð og vinnandi fólki yfirleitt. En einn textinn fór alveg hræðilega í mig. Það var "Ísbjarnarblús", sem fjallar um arðránið á verkafólki í Ísbirninum, "besta frystihúsi í heimi", og ber kjör þess og aðstöðu saman við líferni forstjóranna. Textinn er alveg ágætur allt þangað til kemur að lokum hans og Bubbi fer að syngja um hvað sé til úrbóta. Það sem hann hefur til málanna að leggja er að hætta í Ísbirninum og koma aldrei þangað aftur, kaupa sér kíló af hassi og neyta þess úti í grasi ! Við verkafólk höfum ekkert við svona boðskap að gera. Það verður að ætlast til þess að menn sem telja sig hafa eitthvað að segja okkur, séu ekki með svona bölvað bull. Áróður af þessu tagi gerir ekkert annað en slæva alla baráttu og leiða hana á villigötur. Ég býst við að lausn Bubba sé alls ekki svo óvinsæl hjá atvinnurekendum. A.m.k. vilja þeir hana frekar en baráttu.

Ef ég hefði ekki heyrt því meira frá Bubba, mundi ég halda því fram að maður sem semur svona texta hljóti að vera afturhaldsmaður. En Bubbi er það ekki. Þess vegna beini ég því í einlægni til hans að hann syngi aldrei oftar þennan ljóta og skaðlega texta. Bubbi, notaðu hæfileika þína til að gagnast baráttunni sem við þurfum að heyja dag hvern. Semdu nýjan endi á "Ísbjarnarblúsinn", endi sem sýnir okkur verkafólkinu að úrlausn er til. Komdu til liðs við okkur, Bubbi !

Verkamaður.

**Ritstjórnarskrifstofa er á Baldursgötu 7A, sími 28962 Opin þriðjudaga frá kl. 5—7 síðdegis**

## Úr innanfélagsblaði Rauðsokka:

# „EIK(m-l) og 8. mars-hreyfingin vilja sundraða kvennahreyfingu“

Innanfélagsblað Rauðsokkahreyfingarinnar heitir "Staglið". Það kemur út af og til eftir þörfum. Nú í apríl kom út eintak af því, sem hefur að flytja ýmsar forvitnilegar fréttir um starf Rauðsokka. Þarna eru ágæt sýnishorn af því, hvernig forysta hreyfingarinnar hagar áróðri sínum gagnvart hinum almennu félögum. Í þessu "Stagli" eru tvær greinar, sem ráðast harkalega á 8. mars-hreyfinguna. Önnur greinin fjallar um samstarfið að baráttufundinum 11. mars s.l., og er sú grein birt í heild hér. Hin greinin fjallar um dagvistarsamstarfið, og er sú grein öllu verri og fyllri af óhróðri og ósannindum. Verður hún birt í næsta tbl. Verkalýðsblaðsins.

FUNDAHÓPUR FYRIR 8. MARS.

Eins og rauðsokkar muna var samþykkt á síðasta ársfjórðungsfundi að fyrsti ársfjórðungur þessa árs skyldi helgaður börnum. Fannst félögum það æskilegt að hamrað yrði á kjörum og aðbúnaði barna í íslensku auðvaldsþjóðfélagi nú á barnaári, auk þess sem eitthvað mótvægi gegn hinum grenjandi "barnavinum" íhaldsins þyrfti að koma frá Rsh. Var því settur á fót fundarhópur, sem skyldi sjá um samfelldu dagskrána 8. mars, og 8. mars helgaður þessu merka viðfangsefni.

Fundarhópur tók svo kröftulega til starfa og sankaði að sér alls kyns heimildum. Hann ákvað í samræmi við ársfjórðungsfund að efni samfelldu dagskrárinnar yrði æviferill barns, allt frá fósturskeiði til unglingsára.

Í byrjun febrúar var 8. mars-hreyfingunni sent samstarfstilboð um sameiginlegar aðgerðir 8. mars. Við í fundarhóp vorum óhressar með það hversu þetta tilboð var seint á ferðinni og vildum skiljanlega ekki að öll þessi vinna okkar rynni út í sandinn. Slíkt kæmi að sjálfsögðu ekki til greina.

Á öðrum viðræðufundi við 8. mars-hreyfinguna lagði undirrituð fyrir þær útgangspunkta okkar í fundarhópi. Þær tóku mjög vel í það að fjallað yrði um þetta efni. Hins vegar hafði borist út að þær hefðu hugsað sér að fjalla um efnið "Móðir kona mella". Spurði ég þær síðan að því hvort þær væru samþykkar því að fundarhópur Rsh. færi upp í Ölfusborgir og legði þar drög að samfelldri dagskrá. Tóku þær einnig mjög vel í það.

Eftir að fundarhópur Rsh. kom síðan heim úr Ölfusborgum var undirrituð í stöðugu símasambandi við eina úr fundarhópi þeirra og virtist hún aldrei vera andvíg því að fjallað yrði um þetta, eða hafa nokkuð út á það að setja. Töldum við því að þetta hefði verið samþykkt. 24. febrúar birtist síðan viðtal við undirritaða á jafnréttissíðu Þjóðviljans, þar sem kom fram að efni samfelldu dagskrárinnar væri ákveðið. Út frá þessu viðtali spunnust nokkur eftirmál. 8. mars-stúlkurnar sögðust aldrei hafa samþykkt þetta efni. Sama dag var síðan haldinn sameiginlegur fundur fundarhópa hreyfinganna tveggja. Gengu þar hnífarnir á milli, en rauðsokkar höfðu þó sitt í gegn.

Var ákveðið að tvær úr hvorum fundarhópi ynnu að endanlegri vinnslu dagskrárinnar. Samstarfið við þessar tvær var ljúft og bar ekki á neinum ágreiningi um þau mál, er Eikarar fullyrða að skilji á milli hreyfinganna, enda forðast að fara út í umræður um það. Verður það að teljast nokkur galli.

Eftir fundinn 11. mars var ráðist harkalega að Rsh. í Verkalýðsblaðinu með svívirðilegum málatilbúnaði sem var algerlega úr lausu lofti gripinn. Eftir svona viðbjóð er það stór spurning fyrir Rsh. hvort það sé þess virði að starfa aftur með 8.marshr. (Eik-ml). Við lögðum okkur mjög fram í samstarfinu við 8. marshr. vegna þess að við töldum það síst kvennabaráttunni til hagsbóta að þessar tvær hreyfingar stæðu fyrir sitt hvorum fundinum þann 8. mars. Með þessu samstarfi hefur það hinsvegar komið í ljós að litlu máli skiptir hversu vel það gengur, við eigum alltaf von á rýtingnum í bakið. Eik(ml) og forysta 8. marshr. vilja greinilega sundraða kvennahreyfingu því þeir leggja aðaláhersluna á að finna eitthvað sem aðskilur hreyfingarnar í þeim tilgangi að réttlæta tilveru 8. marshr. Rsh. hlýtur núna að taka það mjög til athugunar hvort rétt sé að hún starfi frekar með 8.marshr. og stuðli að því að auglýsa hana með því móti.

Margrét Rún

<u>ATHUGASEMDIR VIÐ "STAGLIÐ"</u> - frá einni í stjórn 8. mars hreyfingarinnar.

Aðeins nokkrar línur um síðasta kaflann í nýjasta "stagli" Rauðsokka (félagsblað), sem skrifaður er af Margréti Rún, hér eftir M.R.

Það er rétt að M.R. lét okkur í té blað með punktum um hugmyndir að samfelldri upplestrardagskrá á öðrum viðræðufundi. Þessu lofuðum við að koma til umræðu í fundarhóp, sem og var gert, en tjáðum okkur alls ekki um málið á þeim fundi. Á næsta viðræðufundi (þar sem M.R. var ekki mætt) var áfram rætt um grundvöll fyrir sameiginlegum fundi (sem ekki var kominn á hreint) og var þar m.a. komist að samkomulagi um efni dagskrár fundarins sem skyldi snúast um tvö aðalmál, verkalýðsmál og dagvistarmál.

Auðvitað höfðum við ekkert á móti því að Rauðsokkar rottuðu sig saman í Ölfusborgum um drög að dagskránni, en það virðist hafa þurft að taka það betur fram að niðurstöður þeirra væru ekki bindandi fyrir okkur. Það hefði sjálfsagt verið réttast að fá það skriflegt og undirritað. Þessi eina úr fundarhópnum okkar (sem M.R. var í símasambandi við) gerði M.R. ljóst að hópurinn hefði ekki komið saman og rætt málið, og var þeirra samband fyrst og fremst um að reyna að kalla saman hópana.

Þegar M.R. talar um að "rauðsokkar höfðu þó sitt í gegn" þá finnst mér það vera hroki, því að hvað ætlaðist hún (eða þær) til að við gerðum þegar hún neitaði að taka ofan í sig að hreyfingarnar báðar hefðu staðið að ákvörðun um fundardagskrá þá er hún taldi upp í þjóðviljanum 24. febr., áður en 1) samstarfsnefndirnar voru almennilega komnar niður á grundvöll og 2) áður en fundarhóparnir höfðu hist (ég tala nú ekki um þegar hún vissi að fundarhópur okkar hafði ekki rætt málið)? Áttum við þá að slíta samstarfinu? Kannski það. Rsh. gaf okkur ærnar ástæður til að slíta samstarfinu (við vorum allt of linar við þær), þetta var ein.

Þegar allt var komið í eindaga var svo réttilega ákveðið að fjórar (tvær frá hvorri hreyf.) gengju frá þeim punktum sem komnir voru í dagskrána.

Um hvað 8.mh. hafði hugsað sér að gera, þá er það fyrst, að þessa hugmynd sem M.R. nefnir um dagskrárefnið "móðir, kona, mella" höfum við í stjórninni aldrei heyrt. Hins vegar hafði ein í fundarhópnum okkar stungið upp á einhverju í þá áttina til að nota í smáleikþátt eða annað smáræði til skemmtunar á fundi. Í öðru lagi hafi 8.mh. því miður ekki byrjað að undirbúa dagskrá baráttufundarins, enda nýbúin að ákveða á liðsfundi að leggja aðaláherslu á dagvistarsamstarf við aðra, þar á meðal Rsh., þegar bréf barst frá Rsh. Fundurinn að kvöldi 8 mars. var helst hugsaður sem einfaldur og stuttur að dagskrárgerð, og sýnir það best, að fundarhópur okkar var ekki byrjaður að starfa þegar til viðræðufunda kom með Rsh.

Eitt er það að M.R. segir Eikara fullyrða að eitthvað skilji á milli hreyfinganna - hvað það er nefnir hún ekki í kaflanum né heldur þann "svívirðilega málatilbúnað sem var algerlega úr lausu lofti gripinn" og "viðbjóð" eins og hún nefnir skrif Verkalýðsblaðsins um Rsh. og fundinn 11. mars. Hér á hún trúlega við þá grein þar sem talið var að Rsh. hefði brotið grundvöllinn á fundinum. Hið rétta er að samkomulag hreyfinganna var brotið með inngangsorði fundarstjóra, en ekki pólitíski grundvöllurinn. Það væri gaman að vita hvort M.R. álítur eitthvað málefnalegt skilja hreyfingarnar að, eða hvort hún álítur þá liðsmenn 8.mh. sem ekki eru Eikarar hafa skoðanir á því.

Mér finnst stundum á mörgum rauðsokkum að þær vilji líta framhjá ágreiningnum eða gera sem minnst úr honum (t.d. ágreininginn um heimsvaldastefnuna, orsök kvennakúgunar, "karlveldis" - hugmyndirnar o.fl.), í stað þess að hvetja til fjörugra, málefnalegra skoðanaskipta. M.R. notar þá aðferð að hrópa: svívirða! viðbjóður! rýtingur! og 8.mh.=Eik (m-l)! en nefna ekki ágreiningsatriðin. "Á kannski að kalla Rauðsokka Trotta (Trotskiista) og líta þannig framhjá hinum?)

Þannig málflutningur þjónar á engan hátt kvennabaráttunni á Íslandi heldur verður gagngert til að fela hinn raunverulega ágreining og hindra málefnalegar umræður t.d. um orsakir kvennakúgunar og þar með hvaða leiðir verður að fara til að afnema hana.

Mér skilst á M.R. að henni þyki fátt eða ekkert "réttlæta" tilveru 8.mh. - en því segir hún það þá ekki beint og ber rök að máli sínu?

Það er svei mér farið að hvarfla að mér að kvennabaráttunni hér á landi hefði gagnast betur tveir fundir 8. mars s.l., sitt hvor fundur hreyfinganna. Eða hverjum gagnar sameining aðeins sameiningarinnar vegna ef málefnaleg sameining er ekki fyrir hendi?

Ásta




**Einn skrautborðanna frá Samei-ngu 1.maí.**
Mynd : Verkalýðsblaðið.

SPRENGJUÁRÁSIR .......
Frh. af bls. 6
"Nasional Front", sem verið hefur í fréttum undanfarið vegna illvirkja sinna í Lundúnum. "Norsk Front" hefur stundað sprengjuárásir á göngu "Faglig 1. mai-front" í mörg ár, þótt aldrei hafi þeir gengið jafn langt og nú. Vorið 1975 þurfti t.d. að rýma útifundarstað og fresta útifundi 1.maí um 30 mínútur vegna reyksprengja þeirra. Í fyrra var einnig ráðist á útifund "Faglig 1.mai-front" með sprengjum. Nýnasistar hafa einnig ráðist á bókaverslanir í Noregi. Októberbókabúðir í Noregi eru nú fáar, sem ekki hafa orðið fyrir sprengjuárásum, íkveikjum eða öðrum skemmdarverkum.

Þrátt fyrir glæpaverk þessi og fjölmörg önnur afbrot, heldur norska lögreglan verndarhendi yfir nýnasistunum í nafni "lýðræðis og skoðanafrelsis". Er það í stíl við frammistöðu stjórnvalda víða um heim, sbr. það er breska lögreglan kallaði út 4000 manna lið um daginn til að vernda 60 manna framboðsfund bresku nýnasistanna.



VERKALÝÐS BLAÐIÐ

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-leninista)

Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á
gíró 12200-9

ÁBM: ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 3000
1/2 árs áskrift: kr. 1750
Til útlanda: kr. 5500
Stuðningsáskrift: kr. 5000
ÓÐINSGÖTU 30 Pósthólf 5186,
Reykjavík, sími: 29212



# „Á meðan auðvaldið þarf að hafa buxnaskipti sakir ofneyslu"

## — úr ávarpi Eddu Hrannar Atladóttur 1. maí

Margar ræður og ávörp voru flutt í aðgerðum Sameiningar 1. maí gegn kjaraskerðingu. Á útifundinum héldu ávörp Sigurður Jón Ólafsson, iðnverkamaður, og Pétur Pétursson, útvarpsþulur, sem ræddi um baráttu Andófs - 79 gegn svikasamningi BSRB-forystunnar og ríkisstjórnarinnar. Á innifundinum í Sigtúni hélt Elías Davíðsson ræðu, sem fjallaði um fjölþjóðaauðhringa og Alþjóða gjaldeyrissjóðinn. Edda Atladóttir iðnverkamaður, flutti ávarp um verkalýðsbaráttuna. Björn Þórðarson, námsmaður, flutti loks skeleggt ávarp um nauðsyn á samstöðu námsfólks og verkafólks. Á kvöldskemmtuninni flutti ávarp Einar Gunnarsson, formaður Félags Járniðnaðarnema, en félag hans bar félagsfána sinn í göngu Sameiningar 1. maí. Þá fluttu einnig ávörp fulltrúar Baráttueiningar og Samfylkingar 1. maí, þeir Ari Trausti Guðmundsson og Gunnar Hrafn Birgisson. Þeir mátu báðir aðgerðir dagsins vel heppnaðar og mikilvægar og ættu að verða hvati til enn meiri samstöðu baráttusinna í framtíðinni.



Edda H. Atlad. (Mynd:VB)

Í ávarpi sínu sagði Edda Hrönn Atladóttir m.a. :

"Þjóðin hefur lifað um efni fram - við eigum að herða sultarólina, segja þeir sem eiga að heita ráðamenn þjóðarinnar, um leið og þeir losa sína eigin mittisgjörð um tíu göt. Ég las það reyndar í Vísi fyrir stuttu, að skuld mín við útlönd í erlendum gjaldeyri væri nú um ein milljón, og önnur til fyrir dóttur mína, 3ja ára. Og var ekki á skuldir okkar bætandi. Við stöndum sem sagt öll frammi fyrir þeirri spurningu, hvort við eigum að láta gera okkur meðsek og ábyrg. Er yfirleitt nokkuð réttlæti í því, að við fyrst allra herðum sultarólina. Meðan auðvaldið verður að hafa buxnaskipti sakir ofneyslu? Er yfirleitt að vænta nokkurrar sanngirni meðan einn hirðir afraksturinn af vinnu annarra ? Er um nokkuð annað að ræða en að krefjast alls þess sem við getum mögulega náð af auðvaldinu?"

**ÞEGAR AUÐVALDIÐ ÞARF AÐ STELA MEIRU...**

"Jú, það er kannski möguleiki að krafa um dagheimili fái einhvern hljómgrunn, þegar vel árar og atvinna er næg, þegar auðvaldið þarfnast allra vinnufærra handa, jafnt karla sem kvenna, til þess að mala gullið í eigin vasa. En um leið og einhver samdráttur verður, er upphafinn söngurinn um hið göfuga hlutverk heimavinnandi húsmæðra. Auðvaldið er alltaf þeim mun göfugra og hátíðlegra sem það þarf að stela meiru frá verkafólki. Og þegar það verður algerlega uppiskroppa með rök og ráð, gerist auðvaldið dulrænt og vitnar í gamla bók, sem enginn hefur nokkru sinni skilið, og beinir athygli fólksins til himna."

**KIPPUM STÓLNUM UNDAN RASSI ÞEIRRA!**

Í lok ávarps síns sagði Edda Hrönn:

"Félagar: Það hjálpar okkur ekkert að mæna til himna eða trúa bullinu í atvinnurekendum, hversu göfugir eða dulrænir sem þeir þykjast vera. Við skulum búa okkur til baráttu gegn andstæðingum okkar, auðvaldinu, og kippa að minnsta kosti öðrum stólnum undan rassi stéttasamvinnumannanna í verkalýðsforystunni. Annað hvort skulu þeir vera með okkur eða á móti okkur.

Við skulum efla samstöðu okkar og þor. Við skulum breyta verkalýðsfélögunum úr stirðnuðum skrifstofubáknum í virk baráttutæki! ÞANNIG VINNUM VIÐ SIGRA!!"

# Menningin blómstraði 1. maí!



**Einn af skrautborðunum hjá Sameiningu 1. maí.**
(Mynd: Verkalýðsblaðið)

Fyrirsögnin hér að ofan á vel við það menningarefni, sem flutt var í aðgerðum Sameiningar 1. maí gegn kjaraskerðingu. Óhætt er að fullyrða að aðgerðir Sameiningar 1. maí voru skemmtilegustu aðgerðir dagsins, og áttu menningaratriðin drýgstan þátt í því. Kjarabót flutti ýmis góð baráttu- og alþýðulög. M.a. frumfluttu þau á fundinum í Sigtúni lag Auðar Haraldsdóttur við nýjan texta um baráttuna í Kampútseu. Söngsveit og leikhópur frá Kennaraháskólanum lögðu til fjörugan söng og smellin leikatriði. Hjördís Bergs söng nokkur lög við undirleik Jakobs S. Jónssonar. Pétur Guðlaugsson söng á kvöldskemmtuninni mjög sérkennilegt lag við ennþá sérkennilegri texta grænlensks skálds. Og ekki má gleyma fjöldasöngnum, sem var vel skipulagður og vel stjórnað af sérstakri forsöngvarasveit.

Ljóðlistin átti sín gullkorn þennan dag. Kristinn Einarsson flutti áhrifamikið ljóð í tilefni dauðaslyssins hjá Eimskip.

Guðbrandur Valdimarsson, leikari, las baráttuljóð á útifundinum, og tveir ungir strákar báðu um orðið á fundinum í Sigtúni og lásu þar þrumugóð eigin ljóð.

Við menninguna verður ekki skilist, nema minnst sé á haglega skreytingu myndlistarfólks. Myndborðar þeirra vöktu mikla athygli í göngunni og á fundunum. Hér er að komast á legg skreytingarlist með baráttusinnuðu innihaldi, sem vert er að veita athygli og fylgjast vel með.

## Fáir iðnnemar röltu með Fulltrúaráðinu 1. maí

# Skellur fyrir INSÍ- forustuna

Allhörð átök urðu í iðnnemahreyfingunni um afstöðuna til aðgerða 1. maí. Þar tókust á stuðningsmenn fulltrúaráðsins, með helstu forystumenn Iðnnemasambands Íslands (INSÍ) í fylkingarbroddi, og svo stuðningsmenn Sameiningar 1. maí með járniðnaðarnema í fylkingarbroddi. Nokkrir forkólfar INSÍ beittu sér ákaflega fyrir því að iðnnemar röltu með þeim niður Laugarveginn 1. maí í göngu fulltrúaráðsins og töldu að starf og stefna verklýðsforystunnar (sem fulltrúarráðið túlkaði) væri fullboðlegt iðnnemum og í samræmi við stefnu iðnnemahreyfingarinnar. Aðgerðum Sameiningar 1. maí fundu INSÍ foringjar flest til foráttu. Þeim þótti bölvað að EIKarar kæmu þar nálægt og þeir jöpluðu vel og lengi á því að "það væri á Lækjartorgi"(!) Á félagsfundi járniðnaðarnema höfðu sendimenn INSÍ orð á því að þeir sæu ekki betur en stefnugrundvöllur Sameiningar væri skrifaður meira og minna upp úr samþykkt síðasta þings INSÍ og það virtust þeir nota sem röksemd gegn Sameiningu 1. maí.

Stuðningsmenn Sameiningar 1. maí bentu á, að stefna INSÍ, samkvæmt síðasta þingi, og stefna Sameiningar 1. maí færu vissulega saman í öllum aðalatriðum, en hins vegar væru það svik við stefnu INSÍ að ganga undir merkjum verkalýðsforystunnar. Félag járniðnaðarnema samþykkti því að ganga með félagsfána sinn í göngu Sameiningar 1. maí. Stuðningstillaga við Sameiningu féll á hinn bóginn á jöfnum atkvæðum á félagsfundi bókagerðarnema.

Gleðilegast var svo að verða vitni að því fyrsta maí, að fleiri iðnnemar tóku þátt í aðgerðum Sameiningar 1. maí en fulltrúarráðsins. Sú niðurstaða er verulegur skellur fyrir forystu INSÍ, en sigur fyrir kommúnista og aðra baráttusinna meðal iðnnema.

Hafsteinn Eggertsson, formaður INSÍ, talaði á fundi fulltrúaráðsins og fjallaði mest um almenn vandamál iðnnemahreyfingarinnar - á skýran og réttan hátt. En þegar kom að því að setja málið í víðara samhengi, þá fór Hafsteinn (viljandi) mjög fljótt yfir sögu.



Frá baráttufundi Sameiningar 1. maí í Sigtúni.
(Mynd : Verkalýðsbl.)

Hann sagði meðal annars: "Í dag sem og svo oft áður, á verkalýðshreyfingin við að etja kauplækkunartilhneigingar af hálfu ríkisvaldsins. Er mönnum ferskast í minni nýsamþykkt lög ríkisstjórnarinnar í efnahagsmálum, þar sem kveðið er á um skerðingu verðbóta á laun.

Eru það mörgum mikil vonbrigði, þar sem núverandi ríkisstjórn var mynduð fyrir atbeina verkalýðshreyfingarinnar og eitt af helstu stefnumiðum hennar var verndun kaupmáttar launatekna. Enn alvarlegra er þó að hluti verkalýðshreyfingarinnar skuli hafa gert tillögu um hvernig kjaraskerðingunni skuli háttað".

Æ æ. Ósköp hefði nú verið gott að fara nánar út í þessa sálma og fá betri skýringar. Við hlið Hafsteins stóðu, á meðan þessi orð voru mælt, hluti af þeim "hluta verkalýðshreyfingarinnar" sem standa að stöðugum kjaraskerðingaratlögunum ásamt auðstéttinni og ríkisvaldi hennar. Nefnilega Jón Helgason, formaður Einingar á Akureyri, og Haraldur Steinþórsson, framkvæmdastjóri BSRB. Báðir ræðumenn hjá fulltrúaráðinu ásamt Hafsteini Báðir ákafir talsmenn þess að skerða kaup og kjör launafólks og púkka undir ríkisstjórnina. Báðir ákafir talsmenn samvinnustefnu við auðstéttina, stefnu sem síðasta þing INSÍ hafnaði með öllu.

Hafsteinn kaus að tala undir rós, segja hlutina þannig að hægt er að túlka þá í allar áttir. Hann varaðist eins og heitan eldinn að brennimerkja verklýðsforystuna sem svikara og draga nákvæmlega fram hlut hennar í kaup- og kjararáni undanfarinna vikna og mánaða. Hann kaus að "gleyma" því, að yfirlýst stefna INSÍ er í grundvallaratriðum andstæð starfi og stefnu forystusveita ASÍ/BSRB/BHM/Alþýðubandalags/Alþýðuflokks.

Það sem helstu forystumenn INSÍ aðhöfðust fyrir 1. maí og þann 1. maí eru hrein svik við markaða stefnu hreyfingar okkar. Við skulum geyma það í huganum og gleyma ekki.

Iðnnemi.